Lijfi og Dauda ännast mig, ad þa Dags Birtan syner sig, gete eg heill med Gladvære, goſgad þitt mikla Nafn, þu Dijrdar Kongur þrij eine, þier finnst ei nockur jafn, um̃ Eilijfd Lof þitt wtbreide, Eingla og Manna Safn, Amen.



# Fimtu
# Viku Psalmar,

Kvednir af
Þorbyrne Salomons syne.

## Sunnudags Morgun Psälmur.

Ton, O Gud min̄ HErra aumka mig.

Nu er ein Vika nykomen̄, nyan̄ Saung hefium, christner Menn, lofum af heilum Huga, HErrann vorn almáttuga: Hann gaf oss Lijf og Heilbrygde, hann gaf oss Værd og Roosemе, Heidur sie HErra gjoodum, himneskum, þolenmoodum: Allt hvad Lijfs Anda ödlast vann, elske, lofe og prijse hann, hvad sig hrærer a Himne og Jord, Heidur, Vegsemd og Þackargiord, synge med sætum Hlioodum.

Arla Morguns i traustre Trw, til þijn, Drott-

enn,

enn, eg kalla nu, allijt Andvarpan mijna, ofann
send Myskun þijna: Lát mig og mijna þioona
þier, þennann Dag so sem skylldugt er, send oss
þinn Sannleiks Anda, sem vyrdest hiá oss stan-
da, gef oss nu sælann Sunnudag, Sálna vor-
ra ad rækia Hag, læra þitt Ord og lifa riett, lát
þu oss hvern i sinne Stiett, Ord og Athafner
vanda.

Gef þu oss, DRotten gódann Frid, Gran-
de og Slisum forda vid; unn oss þitt Ord ad
læra, og Avöxt þar af færa: Lát oss þad eina
ádhafast, er þinne Hátign vel þocknast; vere
þitt Ord og Ande, ætijd hiá oss byande. O
DRottenn! vier þig ákollum, þá endast vort
Lijf i Heimenum, veit oss um Allder Eilijfdar,
ad syngia þier til Vegsemdar, á lifande Manna
Lande. A M E N.

## Sunnudags Kvolld Psalmur.

Med sama Lag.

Hoosanna Födur Lofgiord sie; Liooseð dag-
legt oss veitande, Riettlætes Soolen sanna,
Sáluhiálparenn Manna. JEsu vor Brooder,
Þock sie þier, þu sem i Dag auglijster mier, bæ-
de þijn Verk og Vilia, veit mier þad riett ad
skilia, ad mitt Hiarta sie Akur sá, i hvern þitt
Sæde falla má, og Avöxt færa þar af þann,
sem þier, minn HErra, gediast kann, lát mig þitt
Lof ei dylia.

Æ! hvad opt hef eg aumur Þræll, egnt þig til Reide, Gud miñ sæll, margfølldum Syndum safnad, Sidferde goodu hafnad. Burtvør Dimvenu þvi til þijn, þrætt nu andvarpar Saala mijn: Goodur ad Giædsku tamur, Gud vertu mier lijknsamur, gef þu mier kvitta Glæpe mijn, gef þu mier Fader Myskun þijn, gef þu mier Syndum grant vid skiä, gef þu mier þig ad treysta á, og elska ollum fremur.

Nu dregur yfer Noatt⸗Myrkred, nu bid eg Gud þu siert oss med, vtsend þinn Engla⸗Skara, oss i Noott ad bevara. Vake yfer oss Verndeñ þijn, vake nu i þier Saala mijn, Myskun þijn mig so geyme, medann eg dvel i Heime, ad mier, þaa Hiervist enda skal, i þinn himneska Dijrdar⸗Sal, audnast mege ad iñgaanga, med Utvølldum og samsyngia, eiliifa Lofgiørd, Amen.

## Maanadags Morgun Psalmur.

Ton, Mikelle Farsælld mæter sa.

JESU Nafne uppstadenn, eg byria þennann Dag. Eilijft Lof sie þier Eining þrenn, allañ miñ Lijfsens Hag, annast hefur þijn Naad i Noott, Neyd og Olucku fraa, vardveitte mig þijn Giædsku⸗Gnoott, greidest þier Vegsemd haa, þvi vil eg nu af Hiarta hier, Heidur og Lofgiørd syngja þier: O DRottenn! laattu Anda þinn, ebla mig þar til best, virdst þu ad styrkia Veikleik minn, ad vanda þinn Lofstijr mæst, og

þar

Þar' um tala fierhvert Sinn, so ad þier vel þocknest.

Eg kalla, DRottenn, þvi til þijn, þessum Dags Morgne a: Lijknar Augum þu lijt til mijn, og laat mig Blessan fa, virdstu mier aumum leggia Lid, leid mig af Glæpa-Slood, seig þu mig kvittann Synder vid, Sonar þijns fyrer Blood. O DRottenn JEsu! minnstu mijn, Myskunar Verndan blessud þijn, yfer mier stande milld og merk, medann eg life hier, heilagra Engla Hlijfden sterk, hafe nu Gaat a mier, so munu öll mijn Viku-Verk, verda blessud i þier.

Vardveittu mig og mijna i Dag, minn Gud, fra allre Pijn, veit þu og hagstædt Vedurlag, vel signe oss Hönden þijn, laat oss i vorre lifa Stiett, til Lofs og Dijrdar þier, og so framganga alltijd riett, eins sem hæfer og ber. Enn þa vor Hiervist Enda fær, og Heimenn kvedia skulum vær, gef oss þa, DRottenn, himneskt Hnoss, hondla i riettre Trw. Fyrer blessadann JEsu Benia-Foss, Bæn mijna dæmijt þu. Fridur Guds sie med ollum oss, æfinlega og nu. Amen.

## Manadags Kvolld Psalmur.

Med sama Lag.

Gude sie Dijrd sem gaf oss nu, goodann Dag at enda, an allra Slisa Adstod sijn, oss sendande varnd veita, heilagra Engla himnesk Vakt, HErrans af skiærre Raad, hefur oss enn þa Lidsemd lagt, ad luckad est allt vort Raad. Þvi

sie Dijrd, Heidur, Þock og Lof, þrij-einum Gude sem oss gaf, Samvitsku = Spekt og Hugar-Hægd, Heilbrygde Lijkamans, Atvinnu, Frid og alls goods Nægd, oss veitte Myskun hanns. Miklud sie þvi og mest vijdfrægd, Myskunsemd Giafarans.

Angradur kem eg enn til þijn, O minn Herra og Gud, Syndanna Byrde margfolld mijn, mier giorer Ofognud. Vertu naadugur minn Gud mier, minnstu a Sonenn þinn, hver til Kross = Dauda hlijdenn þier, Hoopenn Frid-keypte sinn. O HErra JEsu! Arnan þijn, all-ra Meina sie Booten mijn, gef ad eg hafne Synda Sid, setiande alla Von, uppa þitt blessad Lijknar Lid, og liwsa Fyrerboon, þar til mier eilijf gefast Grid, hia Guds og Lambsens Troon.

Geymdu nu mig og mijna i Noott, Myrkranna Vallde fra, so ad vier meigum sofa roott, sæll JEsu, vert oss hia, þa mun Lijkamans Hvijld-en hæg, og Hiartans Roosemd lied, Samvit-skan good og Gude þæg, gefast oss einnig med. Enn ef Noott þesse einasta, a ad vera vor sijd-arsta, vort skal a Christo Fadmlag fest, fast-lega i Trwnne þa, so Nætur-Hvijlden samteing-est, Sælunne epter a. Ganga hverium sem gegn-er best. Gud vere oss øllum hia. Amen.

## Pridiadags Morgun Psalmur.

Ton, O Gud vor Fader sem i Himnarijke ert.

Sønn'

Sonnum Gude sæta Losgiørd vier syngium enn, upprennur Dagur, endar Noótt, yfer skyn Liooſed biarta. Einn og sierhver af oſs heil-brygdur uppſtadenn, vegſame Drottens Giæd-ſku Gnoott, goodfwſlega af Hiarta, hvered oſs-hefur Lidſemd lied, og leidt fra øllum Vanda, ſødurlegana fra ſnæed, Fordiorfun allra Handa, þvij læatum oſs nu Þackleted, Þrij-einum Gude vanda.

O Hiartans Fader allrar Naadar! eg fram-ber, fyrer þig mijna Morgun Boon, Manneſkia alls þurfande: Upprenne nu þijn eiliif Myſkun yfer mier, heilagur Gud œ hærſta Troon, Himne og Jord raadande, Liifs Vege riettum leid mig œ, Leſte ſo fordaſt kynne, iñre Madur þier hvijle hiœ, haf Gæt œ Sœalu minne, læat mig þier alldrei falla fra, Frelſarenn nockru Siñne.

Gud vor himneſkur, gef oſs øllum goodannt Dag, og veit oſs enn i Værd oa Roo, vorrar Atvinnu leita, Drottenn bleſſa þu Verkenn vor og Viñulag, ad vier mættum med Æru þo, Adburda vorra neita, Halld þu oſs faſt i hreiñe Trw, med hverſkyns Dygdar-Safne, ſo eiñn og ſierhver œ og nu, allskonar Loſtum hafne. Morgun Foorn þeſſa medtak þu, minn Gud i JESU Nafne. Amen.

## Pridiadags Kvølld Pſalmur.

Med ſama Laag.

Vor himneſke Hiartans Fader hærſte Gud! Lof ſie þier fyrer lidenn Dag; Liif og Velgeingne alla, þu ſem oſs veitter ſætann Frid og Samſögnud, Andar og Liiffens Audnu Hag, Adſtod og Rææd giörvalla. Heidur og Diird i allre Att, eins vel ꝏ Nott og Dege, ſie vorum Gude ſunged hꝏtt, ſro Vegſemd gleymeſt eige, allt hvad ſem heſur Andardrꝏtt, eiliiſt Lof honum ſege.

Framveges bid eg, Fader Rꝏdar! forlꝏt mier, Illverken miin og Afbrot liot, er eg ꝏ þeſsum Dege, med illum Þaunkum, Ordum Verkum, æ þvi verr! giort heſe þier, minn Gud, ꝏ mot, og genged ꝏ Laſta Vege. JEſu þiins Sonar bleſsad Blood, Bloodſkulld aftake miina, Lauſnare minn til Liiknar Þiood, liet ſig ſaklauſañ piina, lꝏttu þad bleſſad Fridar-Flood, Fader ſæll, ꝏ mier hriina.

Volldugr Drottenn, vertu nu miin Vernd i Nott, Myrkranna Ogn og Meinum frꝏ, Myſkun þiin ad oſs gjꝏte, ſo ad vier meigum ſofa i Fride ſætt og rott, Engla Vakt þinne um mig ſlꝏ, ſo eingum Hꝏſka mꝏte. O Drottenn! ſyn þu Myſkun mier, medann eg ſkal hier þreya, enn þegar liñer Liif mitt hier, lꝏt mig i Trwñe deya, ſiidann um allar Allder þier, eiliiſa Lofgiörd ſegia. AMEN.

## Midvikudags Morgun Pſalmur.

Toñ.

Ton, Blijde Gud, Børnum þijnum ei gleym.

SAla mijn, Saung nyann upphef þu, fagurt skijn, fioorda Dags Liosed nu. Þock sie Gude þeim oss gaf, þessa Noott enda, Slisum friælsa ollum af, oss virdtest senda, hærstur Gud, Hlijfd Engla sina, hans blessud, Hiælpræd oss vinna, Samfognud, so liet oss finna. Heidrud sie æ hverre Stund, ævarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera. æ. e. s. O. V.

Andvarp mitt, eg sende nu til þijn, Auga þitt, i Nææd sieæ til mijn; syndu Gud mier sekum Vægd, so ad eg finne, Frid og Glede, Hvijld og Hægd, hiæ þier, Sææl minne. Gief þu mijn, Gud allsvalldande, Asiæn þijn, yfer mier stande, Satans Pijn, Svikum og Grande, frelsa þu mig fræ i Dag. Ævarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera. Æ. e. s. O. V.

Allt hvad mier, ustær af Mystun þu, fel eg þier, Fader sæll i Dag nu, vil eg so til Verks mijns gææ, Vernd þijn mig geyme, hiæ mier stande og hrinde fræ, hættu Anstreyme. Lææt þu hier, Lijf mitt so enda, ad heppnest mier, hiæ þier ad lenda, med Engla Her, ædst Lof þier senda. Heyr nu mijna Hiartans Bæn. Ævarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera. Ævarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera. Amen.

## Midvikudags Kvollds Psalmur.

Med sama Lag.

Elde Lof, giørum vier christner Mesi, Þeim oß gaf, þennann Dag umlidenn, Lijfs og Sœlar Heilla Hag, hvørskyns Þarfenda, Verken vor og Vinnulag, vel ad ytenda, alls goods Nægd, oß virdtest sijna, Hlijfd og Vægd, hiœ oß let skyna, Satans Slægd, so vard ad dvijna, heidrest þvi œ hvørre Stund, œvarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera, Evarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera,

Fyrergef, Fader kiær Verken lioot, er eg hef, i Dag þier giørt œ moot, lœt mig niota Lausnarans, er Lijf sitt til Nauda, ytgaf fyrer Afbrot Manns, i Krossens Dauda; Ande þiñ, ætijd mig leide, hvørt eitt Sinn, hiœ illu sneide, Lijfs Veg minn, lijknsamur greide, þar til eg fæ þig ad sia, œvarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera, Æ. e. s. O. V.

Veit mier nu, Værd og Rooseme i Nott, sæll JEsu, so ad oß verde roott, Ondu mijna og innra Mann, i þier lœt vaka, enn minn lwsna Lijkamann, liwfa Hvijld taka. Fel eg þier, yte og inne, allt had hier, af Myskun þinne, lienter mier, Lijf, Sœl og Minne, heidre þig uñ eilijf Ar. Evarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera. Evarande, eilijf, sæl, Odaudleg Vera. A M E N.

## Fimtadags Morgun Psalmur.

Ton, Adams Barn Synd þijn so var stoor.

Sie

GUE Gude Packer sem oss eñ, sijner Dags-Liooma ny-runnenn, og aptur upprijsande, af værum Svefne vakna liet, Vondsku-fullt Dioful8 Slægdar-Net, oss vard ad eingu Grande, sierhver i Fride svaf og lá, sæll Guds Engell oss vakte hiá, so eckert saka kunne, verde þvi af oss vegsamad, volldugt Guds Nafn, og hæ tignad, af Hiartans innsta Grunne.

Fimta Dags Lioose fögnum vier, Fader himneskur, veittu mier, þitt Lsan med Þockum taka, lattu mig hafna liootum Sid, Lijferne froomt mier halltu vid, so eckert kuñe saka. Eg befel mig og allt mitt Rad, under þitt Guddooms Valld og Rad, blessa þu mig og mijna, allt hvad þijn Rad mier uñte blijd, eins vel i Dag sem hveria Tijd, fel eg i Forsioon þijna.

HErra Gud Fader Himnum á, Hag vorn i Nykun virdstu siá, og yfergef oss eige, veittu hvad sem oss vinna ber, verde nu blessad allt i þier, so nioota sijns hver meige, ad vier, þa dvijnar Dagurenn, ONottenns vijdfrægium Heidurenn, fyrer Astgiof margfallda. Vegsemd med ædstre Virdingu, vorum Gude og Lambenu, syngest um Allder Allda, Amen.

## Fimtadags Kvolld Psalmur.

Med sama Lag.

ENN vil eg segia Packer þier, Þrij-eine Gud, sem veitter mier, astrijka Umsioon þijna,

þennann Dag hverskyns Prautum fraa, þijn hefur Naad og Myskun hæa, bevarad mig og mijna: Lof sie þier fyrer Laan og Hag, Lof sie þier fyrer Vernd i Dag, Uppsprettan alls hins gooda, ædst Lof og Heidur ollum Lijd, eilijfe Gud æ hverre Tijd, þier einum ber ad bioda.

Jeg medkenne og jaata hert, jeg hef syndgad og illa giort, meote þier mijnum HErra, vondum Glæpum eg vafenn er, vægdu, DRottenn, syndugum mier, laat ei Naad þijna þverra, mins stu nu a þinn sæta Son, sem er mitt Lijf og Hialpar Von, og veit mier i hanns Nafne, Syndanna Kvittun, Frelse og Frid; Framferde gott mier halld þu vid, so ollu illu hafne.

O Gud! vardveittu oss þin Lijd, epterkomande Nætur-Tijd, med ollu umvardande, volldugra Engla Verndar Skiolld, virdstu nu senda oss i Kvolld, hver oss geime fra Grande, so vier mættum i sætre Roo, sofa Ohullt; Enn vakna þo, til Lofs lifande Gude. Unn oss, DRottenn, þa Wesen þver, i Hædum Dijrd ad syngia þier, i sælum Samfognude. Amen.

## Fostudags Morgun Psalmur.

Ton, Ak einn Gud vil eg trwa.

GLEser i sonnum Gude, siotta Dags Morgun Vikunnar, eigum vier enn i Fride, Augum ad lijta Fagnadar. Samhuga syngium glader, sæta Lofgiord i Trw, ardeges uppvaknader,

af

af vorum Svefne nu, hvers Verndar Hond oss tiente, Hlijfd og Vardveitslu enn, so eingenn Hormung hendte, hverke Skepnur nie Menn.

O Drottenns Hꜳ-Valde hroosa, hverium Lijfs Viku-Dege ꜳ, skal vor Skylldan aug-liossa, Skaparans fyrer Verken hꜳ, veite hañ oss sinn Anda, ad vier kynnum i Trw, vors Guds Þioonustu vanda, med Virding allre nu. Uñ oss þig ætid lofa, O JEsu! Gud og Mañ, og i þier Huggun hafa, hvad sem til falla kann.

Leid oss ꜳ Lucku Vege, lijksame Fader enn i Dag, so eckert Óhapp mege, yfirfalla med nockurt Slag. Gef oss i Nꜳdum nenta, nꜳ-kvæmrar Blessunar, sem þu virdest oss veita, til vors Lijfs Naudþurftar. Sierdeiles unn oss anda, Æfe-Tijd vora hier, so mættum sijdarst lenda, sæler i Dijrd hiꜳ þier. Amen.

## Fostudags Kvolld Psalmur.

Med sama Lag.

O Gud Eilijfdarinnar! Æra, Dijrd, Heidur, Lof sie þier, einn Dagur Æfe minnar, allareidu nu lidenn er. Þier vil eg Þacker vanda, þier vil eg Lofgiord tiꜳ, Olucku allrahanda, oss vardveitter þu frꜳ. Æ! hversu Overdugur, er eg þo slijks af þier, ad þu Gud almꜳttugur, audsyner þvilijkt mier.

Enn med ydrande Hiarta, Elskunnar Þeled bid eg þitt, oll Brot og Illsku Parta, uppgefe

mier og sege kvitt. Sonar, þijns signud Pijna, sem hann leid fyrer mig, bætt hefur Misgiörd mijna, minn Gud, enn fridstillt þig; Enn þo mig Synden mæde, opt sem tilfalla kann, eilijf Ayndlegdar Giæde, afrekade mier hann.

Vakande Verndar Auga, virdstu nu hafa yfer mier, i Rööft so eingenn Plaga, yfer mig kunne falla hier, Hialpen þijn hia mier vake, hinnest og alla Lund, oss þijn Börn ad sier take, einkum a Dauda Stund. HErra Gud hialp oss lenda, hia þier til Eilijfdar, þa hefur Synd vor Enda, Eja! værum vier þar. Amen.

## Laugardags Morgun Psalmur.

Ton, Vaked upp, þvi oss vekur ein Raust. Edur under þessum Notum.



ALL Christi Brædur upprijsande, einn Gud Valld, Dijrd, Magt, Heidur, Virding,



vegsame hætt syngiande, af Hiartans Grome, veitest Gude med sætum Hlioome, Rook,



Root, Ha=le=lu=ja, og veitte
hvør ollu Illu frelste oss frä, so vard oss



Værd i Roott, Honum sie Dijrd
hægt og roott.



af ollum Twngum, sogd og swngen, sam=



stemande Guds Engla Hyrd.

Emanuel vor ædste Brooder, sem Endurleyster Heimsens Piooder, ærla kalla eg enn til þijn, fyrer þitt blessad Blooded rauda, bitra Pijnu og Krossenns Dauda, gef þu mier kvitta Glæpe mijn, og veit mier Adstod nu, O minn goode JEsu, ad hlijda þier, a þessum Dege,
ad

ad ei mege, ecka þig riett, þad veitu mier.

DRottenn blessa vort Dags Erfide, DRottenn lætu oss nu i Fride, med Þackum taka Laun þitt lied. Bænrækner hlijdum Bodum þijnum, broodurlegann Kiærleika sijnum, þeim vors Fulltinges þursa med, læt oss so lifa hier, Lijfs medann auded er, ad vier mættum, þar Hiervist endar, hia þier lenda, i Himna Dijrd med Utvolldum, A M E N.

## Laugardags Kvølld Psalmur.

Med sama Lag.

DIJrd sie Gude i hærstum Hædum, hvør allsheattudum Nægdar Giædum, audgar sijn heaileit-Handaverk, fyrer hanns Naadar Hiaastad hreina, hofum vier endad Viku eina, blessud sie HErranns Honden sterk, so eikst vort Ara Tal, i þessum Sorgar-Dal, þaangad til vier, Lijfdaga sadder, løksins gladder, leidunst hiedann þar Efin þver.

Avi þad Viku Verked liota, vier hofum giort so opt ad briota, mildur DRottenn ansoote þier, Sonar þijns Blood og signud Pijnu, siofallda bæte Illgiord mijna, HErra JEsu, mystuna mier, bwe i Briooste mijn, Blood And Minning þijn, so Ønd mijn mædd, Svoslun þar finne, og Athvarf inne, eilijfre Naadar Huggun giædd.

Naaduge Gud i Nafne þijnu, nu vil eg hætta

ta Verke misnu, gef þu oss ollum gooda Roott, Myrkranna Valld og illann Anda, O DRottenn. lattu mier ei granda, veit oss ad sofa vært og roott, heilagra Engla Her, hallde Vord yfir mier, og aptur mig, veke med skapta, Skilnings Krapta, Skapare minn, ad lofa þig.

Hvad sig hrærer a Himne og Jordu, hvad eitt i sinne rettre Ordu, heidre Gud i Hanns Helgedoom. Hanns Dijrdar Vellde hatt auglijse, hroose, vegsame, lofe, prijse, oll Ratturan med einum Room. O JESU! Unn þu mier, einnenn ad færa þier, þad Lof-Saungs Lag, og med þier hallda, um̃ Allder Allda, eilijfann Dijrdar Sabbatz Dag.

A M E N.



# Siöttu Viku Psálmar,

Kvedner af Þorvallde Magnussyne.

## Sunnudags Morgun Psálmur.

Tón, Heimile vort og Hwsen med.

LOF, Æra, Prijs og Þock sie þier, þu milde Gud og Fader, sem hefur audsynt Myskun mier, mig i Noott so verndader, hier med unnter mier heilbrygdum, Hvijldar i Nætur Myrkrunum, Hollds Kraptar hressast glader.

Eins og Siaalldur Augna hier, einn kann vel geyma sinna, skiilder þu goode Skapare mier, i Skugga Vængia þinna; Veitter mier so med Fögnud sia, fagurt Dags Liooseð aptur sia, helg Sabbatz Verk ad vinna.

Drottenn Gud þijnar Daadsemder, daglega þvi eg prijsa; Og vollduga Naad sem veitter mier, vil eg jafnan auglijsa: Fraa Lijfe minnar Moodur þu, mig hefur geymt og hier til nu,

Veg

Veg þinn mier giörder vijsa.

O Gud framveges eg bid þig, audsyn mier Giædsku þijna, auma Manneskiu ꝍlijt mig, Illsku fyrergef mijna; Trwfaste Gud, eg treyste þier, tak ecke þijna Hönd fra mier, þa allt vill amad dvijna.

Minnstu a sæta Sonenn þinn, saklaus þa leid hann Pijnu, fyrer Brot öll og Breiskleik minn, Bloode wthellte sijnu: Vegna þess Fader væg þu mier, vesælum ei burtkasta hier, i fra Auglite þijnu.

Helldur inntak mig enn Dag, i Skaut Myskunarinnar, annastu so minn allann Hag, epter Villd Giædsku þinnar: Lꝍt einga Neyd nie nockurt Slis, nalægiast til mijns Heimilis, siertu Vernd Salar minnar.

I þijnar Hendur eg mig fel, O Hiartans Fader kiære! Mun eg þar huggast miwkt og vel, Mein þo ad Hondum bære. Þu ert minn Gud, enn eg þitt Barn, aumum vertu mier Lyknargiarn, Nꝍd þijn mig endurnære.

O Gud minn HErra, eg bid þig, er mig villt hoolpenn giora, innsigladann lꝍt ætijd mig, i þijnum Hondum vera, hier epter allt til Eilijfdar, ad eg blessadur mætte þar, Frid og Fognud uppskera.

Mig geyme i Dag þijn Myskun blijd, mijna farsæle Vege, einkum ꝍ minne Andlꝍts Tijd, og hinum stranga Dege; Þa DRottenn

alla dæmer Plood; Fyrer dijrmætt JEsu Hiarta Blood, gef ad eg glatest eige, Amen.

## Sunnudags Kvölld Psalmur.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu.

SErstur Gud Fader Himnum aa, HErra mijns Lijfs og DRottenn saa, rijker allsrædande; Öll þijn Verk sem aa oss skie, eru þau Raad og Sannleike.

Þu hefur mijnum Heilsu Hag, halldid vid Lijfed þennann Dag, og allt gott audsynder, og fyrer Jllu fordad mier, Fader himneskur Lof sie þier.

Fyrer þinn Krapt og mikla Maatt, minn þu verndader Andardraatt; Lofe þig Munur miñ, Ond mijn og Tunga sierhvert Sinn, sætlega prijse Almaatt þinn.

Framveges hiaalpa Fader mier, fyrer þitt Nafn sem eilijft er: Ert þu einn efalaust, Jsraels Huggun, Hiaalp og Traust, heyrdu nu minnar Bænar Raust.

Afmaa þu mijna Misgiord þvi, minn Gud, sem adra Poku og Sky; Hreinsa Samviirsku Saar, so hun verde af Syndum klaar, Sonar þijns fyrer Blood og Taar.

Umsioon þijn vake yfir mier, eilijfur Gud eg treyste þier, og bid af audmijkt þig, siaa þu Drottenn nalæger sig, nu er þar dimt i kringum mig.

O þu mitt sæla Andar Skiool, O þu mitt Lioos, miin fagra Sool, sem alla upplijser, undergack þu nu ei hia mier, allt mitt Hiarta so tak ad þier.

Set þar Elldlegu Engla Vakt, allt um̃ kriing mig, so hvijle eg spakt, þeirra Vernd vollduglig, sie, og mijnu Lijfi Æru og Fe, eckert vondt so mig kunne ad skie.

Veittu nu sæta Svefn-Roo mier, Saal mijna, O Drotten̄, fel eg þier, oll mijn Von einn ert þu; J þijnu Nafne og traustre Trw, til minnar Hvijldar leggst eg nu.

Skijle mier Vængia Skiooled þitt, Skugge þeirra sie Athvarf mitt; Taktu enn æ ad þier, Saal mijna Lijf og allt hvad er, af þinne Milde gefid mier.

Laat mig, ad Nætur lidnum Blund, lofa þitt Nafn um̃ Morgun Stund, verde þinn Vilie a mier; Fyrer þijns Sonar Foorn, sem er, til Fridþægingar offrud þier, AMEN.

## Manadags Morgun Psalmur.

Ton, Heidrum vier Gud af Hug og Saal.

GJædskurijkaste Gud minn kiær, gledur sig Dagsens Lioome skiær, eg kiem nu gladur a þinn Fund, um̃ þessa goodu Morgun Stund, fallande nidur flatur þar, fyrer Skor þinnar Hatignar, med Lotning stærstu Lofgiordar.

Nu hefur vel þijn Naad um̃skipt, Nætur-

Myrkrunum frá mier svipt; Og so-lœted mig aumann Männ, upp aptur rijsa heilbrygdann. O Hiartans Fader, Honden þijn, hefur enn vered Skialldborg mijn, med Guddooms Nad-ar Geymislu sijn.

Satan hefur med sinne Makt, sijnar Snör-ur forgefens lagt, geymde mig ð Nottenns Giœdskan hrein, granda ei kunne nockurt Mein, Munnur og Tunga miklar þig, mijn Sœl i þier nu gledur sig, sem so vel hefur verndad mig.

Framar bid eg þig Fader kiær, fyrergef þu mier Synder þær, sem Ungur og Gamall eg hefi driigt; Angrar mig nu af Hiarta slijkt: Minnstu ei þeirra minn Gud nu, Myskunsemd þinne til mijn snw, veikann mig styrke Von-en sw.

Lœt þijna Engla enn i Dag, annast minn Lijfs og Sœlar Hag, Vegum mijnum so verde eg œ, verndadur ollum Hœska frœ; Þviad eg fel i þijna Hond, þu minn Skapare, Lijf og Ond, mijk þu vor allra Mein og Grond.

Geyme mig blessud Giœdskan þijn, gef þu ei nœlgest Illt til mijn, vertu mitt Skiool og Skiolldur trwr, Skialldborg Veria og Hlijfd-ar Mwr, blesse nu Inn-og Ut-gœng minn, Almœttes Dijrdar Kraptur þinn, þennann Morgun og sierhvort Sinn.

Harmande alla hugga þu, Heilbrygde gef þeim Siwku nu, Naudstoddum siertu volldug

Vorn

Born, vernda þu Gud þijn freistud Born, og ef Mootlætes eitthvort Sky, yfir mig kiæme Heime i, styrk þu minn Krapt i Strijde þvi.

Ástrijke Fader enn i Dag, allt mitt blessa þu Vinnu-lag, Erfides Mædu allsháttar, eins enn Verk minnar Kallanar; Til Óvijtes so ei þad sie, enn þier til Dijrdar mætte skie: Blijde Fader þad Bænheyre!

Lát mijna Saalu þenkia um þig, i þijnu Orde gledia sig, i mijnu Hiarta hallda þier, og hafa þinn Otta fyrer mier, christelega ad lifa nu, lijka deya i sannre Trw, fyrer Blood JEsu þad Bænheyr þu, Amen.

## Mánadags Kvølld Psalmur.

Ton, Fader vor sem ert i Himnum ert.

ENN er Dags Tijden wtendud, elskurijkaste Fader og Gud, ꜳ hverium Ástar Augun þijn, enn hafa lited hijer til mijn, og Náðar Forsioon fødurlig, frá øllum Háska verndad mig.

Hiartanlega eg þacka þad, bier, sem hefur mig bevarad, grátbæne eg af Audmijkt þig, i JEsu Nafne bænheyr mig; goode Fader og gef mier kvitt, Glæpugt Synda Liferned mitt.

Med hveriu, ꜳ þad ángrar mig, ad eg i Dag hefi moodgad þig, i øllum mijnum Athøfnum, Ordum, Giørdum og Hugsunum: O! Rotlenn mijn Synd ei dylst fyrer þier, O Rottenn, synd-

ugum væg. þu mier.

O Hiartans Fader minnstu mijns, Medal-gaungara, Sonar þijns, og Lausnar-Gialds sem liet fyrer mig, liwfe Fader, ad blijdka þig, vegna JEsu Verdskulldunar, væg þu mier Brunnur Giædskunnar.

Lyknsame Fader lijt til mijn, ligg eg ber fyrer Augum þijn, hrædt og skialfande Hiartad er, HErra syndugum lykna mier, minna Glæpa ei minnstu nu, Myskunar Auga til mijn snw.

Lat þijna Hlijfd og Giædsku Gnoogt, giæta mijn vel um̃ þessa Noott, Lijkama Saal og Lijfed mitt, legg eg nu Gud a Vallded þitt, fra Ovinum og illum Heim, alla mijna og mig þu geym.

Lat einga Plaugu, Eymd nie Soott, yfir mig koma þessa Noott, vertu hia oss vort Hialpræde, þinn Hlijfdar Vængia Skugge sie, Athvarf mitt, Skiool og einka Traust; Eg mun þa sofa Hættulaust.

Sorgmæddra Hiortu Harmþrwnginn, hugga þu sialfur JEsu minn, þinn sterke Kraptur stydie þa, sem strider nockur Freisting a, þiña Utvalldra allra Hiord, annast og geym þu hier a Jord.

Nu fer veniuleg Hvijld i Hond, HErra þier fel eg Lijf og Ond, þijn Engla Fylking elskulig, enn i Noott geyme og veke mig, DRottne til Lofs þa Dagurenn skijn, DRottne sie Lof fyr-

er Verken sijn, A M E N.

## Pridiadags Morgun Psalmur.

Ton, Eiñ HErra eg betst ætte.

HErra Elskulegaste, Endurlausnare minn, kiær HErra JEsu Christe, Krapt vil eg priisa Þinn, mig til Dags Liosmans leidder, Lôf og Heidur sie Þier, Myrkrunum aptur eydder, Þau urdu ad sleppa mier.

Minn Gud af Giædsku Þinne, geymder mig Þessa Noott, a Liife, Saal og Sinne, so mier er vært og roott, lienter so Liife mijnu, Lucku og Fridar-Hag, wt af Almætte Þijnu, allt fram a Þennann Dag.

O JEsu astwdlege, Þitt Elsku Hiartad ber, a hveriumm einum Dege, Umhyggiu fyrer mier, og mig so yfirskygger, af Þinne miklu Naad, hvad sem mitt Hiarta hrygger, huggar sig Ond mijn Þiaad.

Eg kann i eingann Maata, astrijke Frelsare, Þacklæte Þad framlaata, sem Þier sie bioodande, Þu Giædskan Þusundfalda, sem Þar fyrer verdugt er, edur ad endurgialda, allt gott sem veitter mier.

Oll mijn Verk eg medkenne, aum og vesæl Mannkynd, eru i Augsyn Þinne, eitt Rangtæte og Synd; Enn Þu sem Brot mijn bætter, og barst vorar Misgiorder, sijdann vid Fodurenn sætter, syndugum bid fyrer mier.

 Er

Er mier giorder otvegã, Ast vid Gud Fødur þinn, lattu þijn Tear og Trega, trwfaste JEsu minn, Avaxtarlaus ei vera, ꝍ mier nu syndugum, helldur mig hoolpenn giora, og hreinann af Illverkum.

Fyrer þinn Astar Anda, j Dag mier stioorna þu, lát mig stodugann standa, i sterkre Von og Trw, fra vondum Viela Heime, vernde mig Nꝍd þijn skiær, hun mig hættulaust geyme, hun sie mier ætijd nær.

Eg befel Umsioon þinne, allann mig þennan Dag, Lijkama, Saal og Sinne, sꝍ þu beist um minn Hag, virdstu og vel framleida, Verk minnar Kallanar, og Embættes Omak greida, allt mier til Farsældar.

Gud, af Nꝍgd Giædsku þinnar, gef þu mier deilldann Verd, Umhyggiu Andar minnar, eg fel þier hier ꝍ Jord, sꝍ eg þꝍ fyrr og sijdar, Fullnægiu alla vel, þier giore eg Þacker þijdar, þu minn Emanuel, A M E N.

## Pridiadags Kvølld Psalmur.

Ton, Allt eins og Bloomstred eina.

HVornenn kann eg sem ætte, Almꝍtt ad prijsa þinn, af innsta Andardrætte, O HErra JEsu minn, er i Dag enn nu hefur, ætijd bevarad mig, þu sem allt gott mier gefur, Gud minn, eg lofa þig.

Under Verndar Væng þijnum, Vaktan hafi

der

der ꝏ mier, so eg med ollum mijnum, og allt hvad mier til heyrer, er frij af ollum Voda, eñ framar bid eg þig, med sterkum Armlegg ad stoda, styda og leida mig.

Hwnar og hallar Dege, Hvijldar Tijd komenn er, Lꝏttu þo, O Gud, eige, undergꝏnga hiꝏ mier, mildaste minn Frelsare, Mykstunar þinnar Sool, so lenge sem eg hiare, siertu mitt Lioos og Skiool.

Minnstu ei Synda minna, med hverium styggt þig hef, wt af Nꝏgd Nꝏdar þinnar, nu mier þær fyrergef; Veittu mier eg þier unne, og Elskan verde so sterk, ad eg hier epter kunne, umflya Holldsens Verk.

Þitt blessad Lioos:d biarta, bid eg upplyse mig, so eg i hreinu Hiarta, herberge einañ þig, ad eg i Otta þijnum, ꝏfrañ gꝏnge mitt Skeid, forda mier Fꝏré og Pijnum, Freisting og Sꝏlar Neyd.

Siꝏ þu minn HErra sæle, sijgur ad Nꝏtur Hel, mitt Slot, mitt Verndar Hæle, mitt Lijf eg þier befel; Eg er þijn Barnkynd auma, yfir gef mig ei nu, Lim ꝏ þijnum Lijkama, linsaste minn JEsu.

Eg hefe i Undu þinne, trugga Von og Trw, lꝏttu mig æ þar inne, Ohultann sofa nu: HErra JEsu hiartkiære, Hvijlu Rwm blessa mitt, Ond mijna endurnære, ilmsæta Nafnsed þitt.

Laat Engla Filking friiда, Fader trwr ad mier gaa, liika Dags Liooſid blijda, leif mier heilbrygdum ſiaa, ſo med gladværum Munne, mætte eg prijſa þig, og Hiartans innſta Grunne: Amen, bænheyrdu mig.

## Midvikudags Morgun Pſalmur.

Ton, HErra Gud i Himna-Rijke.

DRottenn heilage HErra minn, Heidur ſie þier og Æra, aptur er Nootten umliðinn, upprunned Liooſed ſkiæra.

Af Hiartans Root eg heidra þig, ſem hafder aa mier Giætur, Honden þijn bioo ſo hægt um mig, heill komſt eg enn aa Fætur.

Framar bid eg þig Fader minn, fyrer vorn Lijf-Giaſara, ſætaſta JEſum Sonenn þinn, ſo mig i Dag bevara.

Læátu þaa ſomu ſætu Naad, ſem þu mier jafnann gefur, enn i Dag bleſſa allt mitt Raad, eins og fyrr vered hefur.

Stioorna þu mijnu Sinne og Saal, ſo ad allt mitt Framferde, Hegdun, Vit, Giorder, Hugur og Maal, HErra til Lofs þier verde.

Þijns heilags Anda Hiaaſtod beſt, Hiarta mitt virdeſt byggia, ſo Jllt eg ecker adhafeſt, i Dag ſem kann þig ſtyggia.

Yfirgef þu mig ei þitt Barn Umſioon þijn good mier blijfe, þu ſem mig hefur Giaadſkugiarn, geymt allt fraa Moodur-Lijfe.

Allt

Allt hvad eg lijd um Æfi Skeid, allt fram̃ ad Burtfor minne, øll mijn Lucka og øll mijn Neyd, er viijst i Hende þinne.

Þockneſt minn HErra, þier i Dag, þanneñ vid mig ad breyta, og myſkuna enn þaa mijnum Hag, og Medlæte nockurt veita.

Laattu mitt Hiarta þacklaatt þier, þyggia vel ſlijka Milde, og þijnar goodar Gaafur mier, gefnar, brwka ſem ſkylde.

Enn ſkule nockud ama ad, Jllt ſem mier kuñe giera, laattu mig, DRottenn, þijdur þad, þolennmoodlega bera.

Mier veittu lijka milde Gud, mijn Verk aa þeſſum Dege, i þijnu Nafne uppbyriud, øll vel framkvæmaſt mege.

Velgiorder þær þu veitter mier, vil eg i allañ Maata, ſem hlijdenn Barnkynd þacka þier, og þær mier nægia laata.

Dag hvørn ſo bid eg DRottenn þig, drag mig fraa Verølldenne, vondum Gyrndum og Villu Stig, ſem vilia fylgia henne.

Þeſs bid eg einnenn þijna Naad, þo ad eg hraſa mege, vidrettu, Gud, mitt veika Raad, vertu mier ſtraangur eige.

Nær eg hefe þier HErra naad, og halldeð i Trwar Gaange, hyrde eg hvørke um̃ Himen nie Laad, Heims þo øll Magt forgaange.

Æ! hvad þu ert fyrer Augum mier, Uñuſte Saalar minnar, dijrmætare enn allt hvad er,

ædst Hnoss Veralldarinnar.

O þu sætasta Elskan mijn, alldrei læt mig þier gleyma, hellldur æstwdleg Orden þijn, i mijnu Hiarta geyma.

Ond og Lijkama Æru, Fé, oll Verk og Giørder mijnar, i Dag befalad enn nu sie, einu Gud i Hendur þijnar.

Leid þu so æfram, Lijfed mitt, og laga til Himna Ferda, ad eg i Rijked eilijft þitt, inntekenn mege verda.

Hiartans Fader æ Himna Throon, fyrer Hiartans Son þinn kiæra, heyrdu nu mijna Hiartans Boon, Heidur sie þier og Æra!

## Midvikudags Kvølld Psalmur.

Ton, A eiñ Gud vil eg trwa.

DRottenn Gud Dijrdar millde, sem Dageñ hefur til Byrtu sett, æ honum einnenn skyllde, Erfida hvør i siñe Stiett, og æ Noortunne aptur, aflijast Verkum fræ, ad Mañsens mæddur Kraptur, mætte Svefn-Værdum næ: Soddann Lykn Gud oss gefur, sem getur nær Veikleik Manns. Allt hvad Andardrætt hefur, Almætted prijse hanns.

J þijnu Nædar Nafne, nu geng eg minnar Hvijlu til, blessa þu oll mijn Efne, uppæ þad gladur sofa vil, eg mæ þo aumur jæta, þad angrar af Hiarta mig, ad eg i margañ Mæta, miñ Gud, hef styggdann þig, medur Nænas

læte

lætе mijnu, margt illt þaa hafdest ad, og i Aug-
ste þijnu, eckert gott forskulldad.

Nu þo Samvitsku sære, Syndaña Stærd
og Illgiørd mijn, O minn Fader astkiære, apt-
ur kiem eg nu samt til þijn, fyrergef Glæpe alla,
sem giørde eg moote þier, særdur af Synda-
Galla, syndu Nææd aumum mier; Burtkasta
ei Barne þijnu, blessade Hyrder minn, fyrer
Frelsarans Pijnu, er Fridþægde Lijdenn sinn.

O Fader! Fader kiære! Fader vørs sæla
Lausnarans, wundu nu sioalfs þijns Sære, ad
syndugs vilier ei Dauda Manns, helldur ad
hann sier snwe, af Hiarta og betre sig, eg þvi
kan Efa trwe, ad undann ei rookstu mig. O þu
mijn Elskan sæta! aahrær mitt Hiartans Þel,
laat mig so Lijf mitt bæta, eg lære ad deya vel.

I Moott og allar Stunder, Auglite þijnu til
mijn snw, Vernd þinna Vængia under, vil eg
Okvijdenn sofa nu, mig so og alla mijna, minn
Lijkama og Ønd; eg fel i Umsioon þijna, um-
fadme mig þijn Hond, siertu Livos Saalar miñ-
ar, set eg mitt Traust aa þig, nockra Ogn Nætur-
innar, naalgast laat ecke mig.

Honden þijn helg afvende, Haaska, og ollu fraa
mier snw, illu yfirhaangande, ef þad kyñe tilfalla nu,
volldugur vel mijn giæte, Verndar Armleggur þiñ,
Ogn so ad eingre mæte, Ønd nie Lijkame minn,
Droosemd, illa Drauma, og allt hvad Saaiu
kann þiga, Onytsamlega og auma, Ahyggiu tak

mier

mier fra.

Myskunar Faderenn millde, myskuna ollum Christnum þeim, er þitt eilijst Raad villde, utvelia sier um þennann Heim; Lækning þeim Veiku vertu, Vesælum Hiaalp og Skiool, oss i Nott ollum siertu, ein fogur Glede-Sool. Til Sængur geng eg gladur, Gud vake yfer mier, vel er eg þa verndadur, vært so hvijlest i þier.

Gef mier ad Morgne aptur, mege eg gladvær lofa þig, þinn goode Guddooms Kraptur, giore framveges vel vid mig, Vilie þinn a mier verde, vertu mier naadugur, farsæl og mitt Framferde, Fader almaattugur, laat mig med Hegdan hreina, hallda so Bodord þijn, ad þier til Lofs alleina, Æfennar Stund sie mijn. Amen.

## Fimtadags Morgun Psalmur.

Ton, Lof sie þier Gud fyrer lideun Dag.

HEilage Gud og HErra minn, Heidur sie Nafne þijnu, enn maa eg prijsa Almaatt þinn, af ollu Hiarta mijnu, sem allt fra minnar Æsku-Tijd, og fram ad þessum Dege, mier enn bræst eige, helldur hefur þijn Blessan blijd, bevarad mijna Vege.

Fram fyrer Astar Auglit þitt, audmiwkur vil eg koma, enn med Lofgiordar Offred mitt, a þessum Morgun-Tijma, þackande, Fader, þinne Naad, þessa Nætur-Vernd hijra, og Dæsemd

þijra:

dijra; Og i Dag bid eg enn þitt Rаad, Athofn minne ad stijra.

Af þinne Myskun er þad sked, ad eg syndugur Madur, er nu med hughraust Hiarta og Ged, heilbrygdur uppvaknadur; Astar Packlæte þier sie tiaad, fyrer þijna Velgiørd alla, og Vernd giørvalla, þusundfallda af þinne Naad, er þu letst mier tilfalla.

Enn hvad mætte eg aum Mannkynd, aangradur fyrer þier graata, þaa eg minnest aa mijna Synd, marg-drijgda, sem eg jaata, Hiartad þaa skaara Hug-Raun ber, ad hef eg ei sem bære, og verdugt være, viliad hlijdugur vera þier, væg þu mier Fader kiære.

Minnstu þijns Sonar Arnan aa, og hanns skaarustu Pijnu, Illgiørdum mijnum øllum fraa, Auglite snw þu þijnu, fyrer þitt Nafn, O Fader! nu, forþienta Reide sefa; Eg veit aan Efa, Misgiørder allar muner þu, mier af Naad fyrergefa.

Aumur bid eg þig eñ aa ny, ad hiaa þier Myskun finne, burtskwfa mier ei Bræde i, Barnkynd veſælle þinne, þu ert minn Fader Eilijfd fraa, er þad þitt Nafn hæleita, mier virdstu veita, minn goode DRottenn, Giæfu þaa, Guds Barn rett-trwad heita.

Eg fly nu, HErra, enn i Dag, under Væng Naadarinnar, bidiande þig minn blessa Hag, af Brunne Giædsku þinnar, allann mig fel eg i þitt

Skaut,

Skaut, med Aund, Heilsu og Lijfe, Hond þijn mier hlijfe, leide hun mig a Lijfsens Braut, leyst ann fra Heimsens Kijse.

Vertu ollum sem Ottast þig, eilijft Lioos og Hiaalpræde, blessa mitt Lijf og metta mig, med Lijfs og Saalar Fæde, laattu þad allt vel luckast mier; Lijka verdugt Þacklæte, eg greidt þier giæte, fyrer daglegt Braud sem þigg af þier, þad veit þu Gud minn sæte.

Vollduge Gud mier vert þu hia, vernda þu Tungu mijna, Onytsamlegum Ordum fra, et styggia Millde þijna, so þier til Dijrdar Drottenn minn, i Dag allt mitt Framferd, vel-skickad verde, so afmaaest fyrer Anda þinn, Illverkenn sem eg giorde.

Laat mig, HErra, so lifa hier, liwsur ad Vilia þijnum, so eg daglega þocknest þier, þarsur Naaunga mijnum, Frelsaranns JEsu Fadme i, fagne, vone og þreye, sæll sijdann deye, og med Utvoldum Eymda-frij, eilijft Lof, Gud, þier segie. A M E N.

## Fimtadags Kvolld Psalmur.

Ton, Vor HErra JEsus visse þad.

DRotten Gud Fader Daadsemdar, DRottenn sem ollum Myskunar, þeim sem hanns Hiaalpar leita, i þusund Lidu lætur hann, Lyknn sijna skie vid sierhvern Mann, sem vill hanns Bod vardveita. Hvornenn fæ eg, O HErra minn!

minn! Heidur nooglega vijdfrægt þinn, og vtbreidt þitt Lof sem bære? Fraa allre Skadsemd enn i Dag, Andar og Lijfs miñ veikañ Hag, geymder þu, Gud ástkiære.

Þigg þu nu af mier þar aa moot, þijns gooda Sonar fulla Boot, sem blijdkade þijna Bræde, fyrer hanns Nafn myskuna mier, mig so framveges tak ad þier, Heill mijn, Lijf og Hiaalpræde, umvef mig Naadar Ørmum nu, alldrei mier gleyma vilier þu, heilog Ord þijn so hlioda: Angrar mig mest þig moodgad hef, mijna Synd alla fyrergef, og veit mier Ydran gooda.

O Gud! veit mier ad Onden mijn, andvarpa mege so til þijn, hvad sem ad Hondum bære, i fullre Von og traustre Trw: Til mijn Asioonu þinne snw, Abba Fader ástkiære, nu vil eg hvijla hægt med Roo, hiaa þier mijn Saalen vake þo, glod þinne Geymslu under, Augun þo lykest aptur mijn, Augun þaa blessud vake þijn, yfir mier allar Stunder.

Uppaa þad sætt eg sofna vil; Sierhvad þad mier nu heyrer til, fel eg þiñe Forsorgun, Myrkranna leystur Faare fraa, fyrer þinn Krapt so mætte eg þaa, mæla þitt Lof aa Morgun. Sorgmædda alla annast þu, i Noott sem kunna verda nu, kveina og til þijn kalla, i Nafne JESU, Nafn þitt aa, naaduge Fader, bænheyr þaa, gef þeim Huggun giorvalla.

Goodgiarne Fader, gef þu mier, ad gera nu

so lifad hier, æ fyrer Augsyn þinne, ad nærmiju endast Æfe-Tijd, og unned hefe þetta Strijd, frials af Armædu minne, ad mege eg komast þa til þijn, þar sem Utvaldra Flockur skyn, og þu villt Taar af-þerra, þig sijdann lofa, Þrenning blijd, þar um eilijfa Lijfsens Tijd, Amen, bæn-heyr minn HErra. AMEN.

## Føstudags Morgun Psalmur.

Ton, Hvar munde vera Hiartad mitt.

HErra Tvdlegaste O JEsu! Unnuste hiartkiær minn, verndade mig i Noott eñ nu, nælæg-ur Kraptur þinn, hreste Sæl mijna Hvijldeu sw, heill er og Lijkamiñ, var mier so þesse Vern-den trw, Vanmætt eg eingann finn.

O! hvad med glødu Hiarta hier, Hvijldmiñe geng eg fræ, Ond mijn fagnande þackar þier, þu Guddooms Tignen hæ, Nætur-Hvijld þæ sem nu gafst mier, Noottu lidenne æ, og adrar slijkar Astgiafer, ei þær full-telia mæ.

Eg bid harmþrwngnu Hiarta med: HErra, fyrergef mier, øll mijn Afbrot sem eru sked, Ond mijn þvi kveinkar sier, Syndenne hef eg Hiart-ad lied, Herberge þitt sem er, andvarpar þvi mitt græted Ged, Gud minn, uñ Vægd hiæ þier.

Stioorne i Dag þijn Millde mier, miñ Gud, og alla Tijd, Lijf mitt giørvallt og Hegdun hier, Hond þijn framleide blijd, adþylleſt gott sem ydka

Ydka her, illt vareſt fyrr og ſijd, ſo heppneſt nær
eg hiedann fer, Hvijld epter unned Strijd.

Ebl mijna Von, mitt Trauſt og Trw, til Þijns Bloods, JEſu minn, Þvi Fridþægingar Foornen ſtw, færde mier Avext ſinn. A Þeſſum Dege DRottenn Þu, daudann Lijkama Þinn, greftra lierſt, ſo ad gierder nu, Glede-Svefn Dauda minn.

Gef Þu mier Nærd eg giæte ad Þvi, greftreſt Synder mijnar, Þijnum dijpu Blood-Undum i, allar ſo hylieſt Þar, ſo alldrei drottne uppa ny, i mier Root Vondſkunnar, leid mig af ollum Loſtum frij, i Liooſe Gudrækuennar.

Frelſarans JEſu Fænged blijdt, fadme mig Ormum tveim, Ønd mijn, Lijkame og allt ſie mitt, ætijd verndad af Þeim, eins og Siaalldur Augna Þitt, Elſku Fader mig geym; Lat oll mijn verda Afbrot kvitt, ædur enn flijt vid Heim.

Fyrer Þitt Blood og beyſkann Deyd, Barn Þitt dijrkeypt eg er, Verk minna Handa vel fram-greid, ſo verde til Lucku mier. Yfer Þær alla Bleſſan breid, Brauds ſem rett abla ſier: Hiælpa Þu Þeim i hverskyns Neyd, ſem hafa ſitt Trauſt a Þier.

Þegar vier Heime forum fra, i Fodur-Landed inn, Lijfed vort vera lat Þu Þa, lykſamur Dauda Þinn: Þijn helg Grof ſie vor Hvijld, Þar ma, hægt ſofa Lijkaminn: J Sælu-Viſt Þier ſiaalfum hia, ſo leid oſs JEſu minn. Amen.

## Föstudags Kvölld Psalmur.

Tón, Hærste Gud HErra millde.

HImneske HErra milde, Hwm Dagsens komed er, þijn Guddooms Giædska vilde, greinduſt ad Tijmarner, ſo einn Dag epter ann-ann, eg kem Daudanum nær, þaa ſæ eg Fögn-ud ſannann, fyrſt JEſus yfirvann hann, Hvijld mijn þvi verdur vær.

O! þu elſkulegaſte, Endurlauſnarenn trwr, Hiartans Huggareñ beſte, Heill mijn og Vernd-ar-Mwr, medkenne eg Myſkun þijna, mier ſem enn hefur veitt, ſanna Medaumkan ſijna, Saalu bevarad mijna, fraa hverskyns Haaſka leidt.

Sonur Guds JEſus ſætur, ſañur Emanuel, ſem ad oſs gefur Giætur, geymer fraa illu vel, O! Gud giæfe eg kynne, þitt aumt og veſælt Barn, þocknaſt ſo Elſku þinne, ſem þu ert Saa-lu minne, milldur og Giædsku-giarn.

Gud naade Gleymſku mijna! Gud betre ſlij-ka Synd, hvar med eg Haatkyn þijna, hefe ſtyggt aum Mannkynd: O! hvad mig mætte trega, mijn Saala, giært ad þvi, og þad rett yfervega, ad vid þannig daglega, gaungum fram Glæp-um i.

Nu med þvi Nætur-Rockur, naalæger ſig til mijn, kem eg fram Hiarta-klockur, kroſſfeſta El-ſkan mijn, minnſtu ei Synda minna, Margfiol-da þeirra gleym, veit mier Boot aa þeim vinna,

vegna

vegna Blood-Unda þinna, vernda mig vel og geym.

Nærd þijn i Nott mier hlijfe, Nærd þijn mig bevare, yfer Ondu og Lijfe, ætijd þiñ Fridur sie. Lærttu Ogn Nætur eige, Onæda kunna mig; Unn mier eg aptur niege, æ tilkomanda Dege, Lioossens Gud, lofa þig.

Hugga i Hormum sijnum, Hiortu Trwadra frooin. Upplyptu Augum þijnum, yfer þinn Christenndoom. HErra, þitt Blooded hreina, hiæ oss nu finne Stad, Lijf-kroptug Lækning Meina, læt ei Manneskiu neina, æ sier Onyta þad.

Eñ i Nott Nælægd þijna, og Nædar-Lioos fagurt þitt, lættu lioma og skyna, Legu-Rwm kringum mitt, i þvi mijn Onden vake; eñ Hollded leite sier, Hvijldar, og Hressing take, Hiartad samt til þijn kvake, sef eg þa sætt i þier.

Veit mier, Lausnarenn liwfe, Lijfs medann dvelst eg hier, ad eg minn allann hafe, Andar Sognud i þier, þængad til þu mig kallar, þessare Mædu fræ, i Dijrd til Himna-Hallar, hvar eg um Allder allar, Auglit þitt sællt mun siæ.

Heyr þu nu, HErra sætur, hvers eg grætbæne þig, æ villtu Veralldar Stræte, villast læt ecke mig, hiedann vill Hiartad leita, hefur þad Gyrnd til þijn: Þetta virdstu mier veita, vegna þijns Kiærleiks heita, Amen, þad Osk er mijn. A M E N.

## Laugardags Morgun Psalmur

Ton, Nu bid eg Gud þu nalder mig.

ALmattugur Gud Allsheriar, eiñ rettur Fader Giædskunnar! Eg aumur hladenn Sekt og Synd, saurgud og vesæl Skepnu = Kynd, medkeñe þessa Morgun = Stund, Myskun þijna a alla Lund, og margfolld Giæde geseñ af þier, goode HErra, og audsijnd mier.

Astrijkar Giafer allar þær, Elsku = rijkaste Fader kiær, þacka eg milldre þinne Naad, þusundfolld Losgiord sie þier tiaad; Gef ad eg alldrei gleyme hier, þvi gooda sem þu veitter mier, helldur sem annad hlijded Barn, heidre þig, Drottenn Naadar = giarn.

Sia mitt angrædt og sorgfullt Ged, sem þig uñbidur Taarum med, fyrergef mijna Søk og Sekt, Synda Athæfed Ogudlegt, moote þier Guddooms Brenning þijd, þessa Viku og alla Tijd, sætust Forþienan Sonar þijns, Synder af = þvoe Hiarta mijns.

Liwse DRottenn mier lijkna þvi, leid þu mig þijnum Sannleik i, Ast þijn vere mier Adstod blijd, allra minna Lijfdaga Tijd, Hiarta mitt alldrei laate laust, Lijfs mijns og Saalar einka Traust, fostust Trwar Fadmlog uñ þig, fyrr enn þu hefur blessad mig.

Hond þijn i Dag mier stioorne sterk, stidie og blesse oll mijn Verk, laattu þau ske til Lofs vid þig,

Þig, enn luckast vel fyrer sjalfann mig, og sälu-hiälplega Framkvæmd sia, farsæl þad Drottenn Himnum a, DRottenn blesse vort dagleat Braud, DRottenn bæte vorn Skort og Naud.

Enn skule i Dag, ad Skickun þijn, skadsamlegt eitthvad vitia mijn, Ofsookn, Þrauter og Þreyngingar, i þessum O-Sioo Veralldar, rettu mier þijna Hiaalpar Hond, so hverke fordiarfest Lijf nie Ond, heilagt Þolgiæde gef þu mier, gloande Von og Trw a þier.

Myskuna þeim med þinne Naad, þu vort einasta Hiaalpar-Raad, er þijn leitande elska þig, i þier so mege gledia sig: Alla Naud-þreyngda bænheyr best, Blessan þeim Aumu meddeilest: Gef voru Lande Glede og Frid, gooda Roosemd laat hallldast vid.

Laat oss þiggia med þacklaatt Ged, þijnar Gaafur, sem hefur þu led, Gef mier aumasta þijnum Þioon, þad er, DRottenn, mijn audmiwk Boon, eitt Hiarta sem þig heidre vel, heita Elsku og Kiærleiks Þel, yfergef, HErra, ecke mig, æfenlega eg vona a þig.

Saal mijn Æra og Embætte, i þijna Geymslu faled sie, Endurlausn mijn og Adstod trw, Engla þinna laat Vardhalld nu, umkrijngia mig a alla Hlid, allskyns Skadræde forda vid, so leinge sem eg life hier, Lidsemd þeirra sie yfir mier.

Þu sem mig hefur vel vardveitt, Viku þesse Naad framleidt, laat mier so, goode Gud, þen-

ann, Glede Dag verda farsælann, ad eg mege
þier HErra hiaa, Hiartans Roosemd og Unun
faa, leystur af miijnu Mootlæte, milldaste Drott-
eun, lat þad ske. Amen.

## Laugardags Kvølld Psalmur.

Ton, Olldungar Juda aäars Dags.

O! hvad mikel þiin Myskun er, milldaste
DRottenn, samjosn þier, Omæleleg fraa
Eilijfd sw, þad er miin Trw, so er hun stoor sem
siaalfur þu.

Soddañ Myskun var sæl og bliid, Saal miin,
uñi lidna Dagsens Tiid, ockur gefenn af Gud-
doms Naad, med Giædsku Daad, honum sie
Diird uñ Himen og Laad.

Þesse daasamleg Hiaalp og Hliif, hefur fraa
Slisum geymt mitt Liif, vard þvi vid einguin
Haaska hætt, enn Hiartad kiætt, Lof miinum
Gude syngur sætt.

Framar bid eg, miñ Fader, þig, framhalld þu
þiñe Naad vid mig, afmaa þu miinar Misgiørd-
er, mig tak ad þier, naudstøddum munt ei neita
mier.

Yfergef þu mig ei miñ Gud, þitt auma Barn,
i miñe Neyd, vegna þiins Sonar Saara-Floods,
þess sæta Bloods, sem wt er ruñed oss til goods.

Kom minn JEsu Guds kiære Son, med
kroptuga þiina Forerboon, til Liifs og Saalar
Hiaalpar hier, i Hiarta mier, seg þu: Minn

Fridur

Fridur sie med þier.

Minn vertu Læremeistare, milldur Gud Andeinn heilage, hveria Stund er þijn Hiaastod ny' eg huggast þvi, Breyskleika mijnum ollum i. -

O þu haa-blessud Þrenning þijn! þiii Naadar Væng eg under skrijd, giæte mijn vel i Noott enn nu, þijn Naalægd sw, hun sie mitt Skiool og Skialldborg trw.

So sem þitt Barn vel vardveittann, vera laat mig og Ohultann, hæga Svefn-Roo og Hvijlder faa; Haaska, Neyd, Praa, Sonur Guds JEsus svipt mier fraa.

Allt mitt so fel eg aa þitt Valld, O minn JEsu mitt Lausnar-Gialld, Ondena, Lijf og Æru mijn, i Umsioon þijn, medann Hiervistar Dvol ei dvijn.

O JEsu! vak þu yfer mier, einga Skadstund laat hreifa sier, Ottalaust sef eg uppaa þad, sem eg um bad, Honden þijn sæl mier hlijfe ad.

Hylie nu sijdarst Hvijlu mijn, heiloa Purpura-Kaapa þijn, med þvi Blods-Teikne aadreifdann, sem af þier rann, laat þu mig vera verndadann.

J Hiarta mijnu Hvijld þier bw, heilage Guds doms Ande nu, so eg i mijnum Svefne hier, sijdst gleyme þier, hverskyns Praut sem ad Hondum ber.

Prij-eine Gud, i þijna Naad, þessa Noott fel eg allt mitt Raad, lykna þu mier i Lyfe og

Deyd, leys mig fra Neyd, yfer mig þijna Blessan breid.

Þegar Dags-Liooma Skyned skiært, Skugg-ann Nætur sær burtu hrært, lát þu Saal mijna lofa þig, leid sijdann mig, fram a þann retta Fridar-Stig.

Vera sie hier og ædsta Dijrd, af Engla og Maña Twngum skijrd, heilaga Þrenning Himnum a, Halelúja, um allar Allder, Amen Ja. A M E N.



# Sieunda Viku Psalmar,

## Kvedner af Prafastenum Sr. Þorsteine Ketelssyne, Ad Hrafnagile i Eyafyrde.

### Sunnudags Morgun Psalmur.

Ton, HErra Gud i Himnarijke.

Hr Frelsarans JEsu Fader og minn, Fader alleina goode, kannast eg nu vid Kiærleik þinn, og kvaka uppa þig i Hlioode-Aug.

Augliòos er Sool fyrer Sioonum Manns, sijna med Geisla Prijde, hun vermer allann Veralldar Krans, vonda sem gooda Lijde.

Dyliast kann eingenn ORottenn vid, dijrlega Myskun þijna, þu leggur sekum Lykn og Frid, sem lijter ei Glæpe mijna.

Ecke liestu mig enn i Noott, Adstodarlausañ vijla, auked hefur mier Prek og Proott, þesse mijn Nætur-Hvijla.

Raun-betstu prijse Munnur minn, milldust þijn Hiarta Giæde, hia þier einum eg Frideñ finn, og Fagnadar betst Urræde.

Villda eg kunna Packer þier, þad sem mijn Skyllda bijdur, Gud minn, lattu þad gefast mier, og giættu mijn ei ad sijdur.

Ohreinann Klædnad af mier drag, i-klæd JEsu Rettlæte, þu kannt allt færa lioott i Lag, og leggia til Saalar Mæte.

Raanglaatum Diofle, Hollde og Heim, hamla fraa Velferd minne, fyrer Slægd þeirra Gud mig geym, ad glate ei Skepnu þinne.

A þig set eg mitt einka Traust, Athvarf og betsta Hæle, Ovinum munt ei laata laust, Lijfed mitt, ORottenn sæle.

Hvort sem eg lijt, er Hææskenn nyr, Hiartad sær Strijde ad mæta; Yfirgef mig ei ORottenn dijr, Dygd þijn kann allt ad bæta.

J Prautum vertu Vinur minn, og Veikleika Trwarinnar, Satan viller um Saudenn þinn,

sie hann aan Giætsl☧ þinnar.

Mig laat daglega þioona þier, þier fel eg mig aa Hendur, eingenn kann vinna Meined mier, mier ef ad hiaa þu stendur.

Naaden þijn veite Næring mier, og Nauðþurft Lijfs og Saalar, fyrer oss sialfur Sorg þu ber, sijst dregur neinn aa Taalar.

Um Lijfdaganna Leingd og Stærd, Lykn þijn betst fyrer raade, ad Kvollde Lijfs mier veiter Værd, og Vist aa Himna Laade.

Nun eg þaa kunna eilijf Ar, inna Þacklætes Skylldur, og syngia þier af Syndum klaar, sijfeldt Lof HErra mildur.

Þ i e r vil eg bioo da i þeirre Von, Þioonkan, minn DRottenn froome, hiaalpadu mier Guds sæte Son, sijdarst aa efsta Doome.

S i e eg þaa giorla retta Raun, af Reynslu Trwarennar, nær þu ert sialfur Lijf og Laun, lioomande Christne þinnar.

D i j r d sie þier Fader, Dijrd sie þier, dijrdlege JEsu framen, Dijrd helgum Anda dijrust ber, dijrkest Þrenningen, Amen.

## Sunnudags Kvolld Psalmur.

Med sama Lag.

ÞRenning almaattug Guddooms good, giæt ad Kveinstafan minne, fyrer missns Drottenns dijra Blood, Daadsemd eg treyste þinne.

O Gud eg þacka af Audmijkt þier, Astsemd

og

